

med øllum Himneſkum Hyrdſveitum, Syngium vier Lofſaungeñ



þiñar Dyrdar, O - aflœtañlega, Segiande:

SANCTUS, Heilagur, Heilagur. Sem a Jooladageñ.

Epter Bleſſan ſkal ſyngia þeñañ Pſalm.



J Dag er Chriſtur uppriſeñ, Haleluja, Haleluja, af þvi gledieſt nu



Chriſtner Meñ, Haleluja, Haleluja.

Sa Fyrra Dag leid ſara Pijn, Haleluja, Haleluja, Saklaus fyrer allt Mañkyn, Haleluja, Haleluja.

Þier hrœddu Kviñur fared fram, Haleluja, Haleluja, fliootlega i Galilœam, Haleluja, Haleluja.

Læresveinum þad seige þier, Haleluja, Haleluja, sa Kongur Dijrdar Upprisen er, Haleluja, Haleluja.

A Paaska Glede sætt Lof sie, Haleluja, Haleluja, Sunged DRottni af Christnene, Haleluja, Haleluja.

Heilagre Preñing Hædstu Dijrd, Haleluja, Haleluja, Af Hiarta seigium, og Packargiord, Haleluja, Haleluja.



A Añañ Dag i Paaskum, Allur Saungur Fyrer og Epter Predikun sem aa Paaska Dagen, En a medan Foolked geingur til Guds Bords, skal sijngia. Pier sie Lof og Dijrd, sem Añañ Dag Joola, En sieu ecke Communicantes, þa skal sijngia fyrer Offertorium, þeñañ Psalm.



Guds Son i grimu Daudans Bond, giefen fyrer Synder Maña, Fyrer þad Uppreis nu lioost med Lijfe og Aund, Lijsed gaf oss þad sanna.



skulum vier Foduren nu, fagnande losa af Ast og Trw, og syngia Haleluja, Haleluja.

Daudañ

Daudañ gat eingeñ sigrad sa, er siælfur var Lostum bundeñ, af Sonum Maña satt skal tiæ, Syndlaus vard eingeñ fundeñ, þvi kom sw dapra Daudans Pijn, Deydde allt med Krapte sijn, i Her-Fiotrum so hiellt oss þa, Haleluja.

Eingieteñ Guds Son JESU Christ, i vorn Stad er nu geingeñ, Syndena vañ hañ so med List, Sigur er æ Daudanum feingeñ, hañs Grimleik allañ burtu bar, so Born Guds skadar nu ecke par, hægur Svefnhøfge heita mæ, Haleluja.

Eitt Strijded var miøg Undarlegt, þad ættu Lijf og Daude, Lijfed svipte hañ siñe Makt, og sigrade hañs beyskn Nauder, JEsu Daude eydde hier, þeim eilijfa Deyd, sem Skrifteñ tier, eitt Gabb af Daudanum giørdest þa, Haleluja.

Vort Paaska Lamb miøg prijdelegt, plagum vier JEsum ad kalla, af Kiærleiks Hita æ Krosse steykt, i Kvøleñe fyrer oss alla, hvørs Blood er dreift um̃ Hiartans Roopt, þvi helldur Trweñ Daudanum moot, oss kañ ei skada Kvalareñ sa, Haleluja.

Þessa Haatijd so holldum vær, med Hiartans Glede og Yude, þvi siælfur JEsus Son Guds kiær, Sigur-Veg Lijfs oss kiende, hañ uppvekur Hiartans Þel, huggande oss af Sorgum vel, Syndaña Myrkrum svipter fræ, Haleluja.

Sæleua skulum vier sedia fyrst, med soñu Paaska Braude, af Hiarta elskum HErrañ Christ, þvi Hwngur er burt og Daude, þad Gamla Swrdeig er horfed hier, hañs Orded klaart sw Fædañ er, sem lifande Trwna lijfga mæ, Haleluja.

Leyste hañ oss fræ længre Neyd, liootum Syndum og Dauda, med siñe Pijnu og sarum Deyd, so vier ei kiendum Nauda, þvi rijsum nu upp af Synda Sid, og Saurgun alla skiliunst vid, so hliootum vier Fognud Himnum æ, Haleluja.

Pharaonis sw freka Makt, foreydd er nu med øllu, hefur Christur hañ under lagt, og hrunded Fængelse illu, sem i Egypto ættum vier, eñ Christur sañur Moyses er, Israels

Saal-

Saalum Frelse ad faa, Haleluja.

DRottenn riettur David ertu, Dyrdar Kongur O Christe, Sigur hofum ad sonnu nu, sinn Krapt Goliath miste. Pharao, Goliath Formenn Tveir, Fianda og Dauda merkia þeir. Vor Hialp ad Christur kallast aa, Haleluja.

Epter Blessan, Dyrdlege Kongur O Christe, fyrer utann Versenn, þaug meiga syngiast i Aptan-Saung, þar ed vill, Enn þegar þesse Psalmur er sungenn aan Versanna, þa aa ad athugast þesse Tala, I. II. III. IIII. V.

I. Dijrdlege Kongur O Chri - ste, Hale - lu - ja. 1. Vers

O Gud vor Fader i Hi - me - rijke, fyrer þinn Son, heyr vora Boon, hann er Oss fæddur og giefenn vijst, til allrar Hiaalpar og so Trausts. Vert oss milldur Kiære Fader, Ha - le - lu - ja.

II. Sa sem var pijndur og deyddur og




fyr · er oss giefeñ, Hale · luja. O Christe Kongur ad



Eilijfu, þig bidium vier, þyrm oss nu hier, þu sem Daudañ hefur fordæmt,



Og Sæluhiælpena forþient, Bænheyr oss vor DRotteñ, Hale · luja.




III. Hañ er upprisen, sem hañ sagde, Lofed DROtteñ,



Heilagur Ande, vor Boon er til þijn, O Gud vor Hiælpare, Samvitskuñar Huggare,


Huggare, Hiartans Glede og Lyst, afmaa þu allañ Hugar Brest, Frid og Fog-


nud gief oss, Lofed DRotteñ. IV. Bid þu þiñ Fodur fyrer oss.
IIII. Vers


Konungsins Dootter Christne þijn, kiæra Brwdur sig nu gledur, þvi hun i Anda


nu hefur þañ, að hvorn hun treyster Gud og Mañ, hañ er sem hañ sagde, Uppprisen.
Uppstijgeñ.


V. Hale luja, Lofed DRotteñ, Hale luja, Hale lu ja.

Pridia

Pridia i Paaskum, Siungest allur same Saungur, sem Annan Dag, bæde Fyrer Predikun og Epter, Fyrer utan Gloria.

I. 2. 3. 4. 5. Sunnudag epter Paaska, Allur Saungur sem a Pridia i Paaskum. Enn a medann Sacramentum wtdeilest, maa siungia, JEsu þijn Minning miøg sæt er, etc.

## A Uppstigningar Dag, Messu Upphafed.



J Dag þa Haatijd holldum vier, til Himna stie vor Herra. Vor aum- Eilijfe Gud vier þøckum þier, þig bidium virdstu ad vera,



ra Manna Verndenn blijd, Veralldar Kvøl er mørg og strijd, hiaalp oss hana

 ad



ad bera, Hale - luja, Ha le lu ja.

Lof sie Gude vor Lausn er giord, Lijfs-Veg oss bweñ soñum, Christur upplauk oss Himna Hurd, Hvor byrgd var ollum Moñum, hvor sem trwer fær Fognud hañ, fyrer þad sig tilbwa kañ, Epter ad fylgia honum. Haleluja, Haleluja.

Þeir leita ecke Lausnarans, Sem liggia i Syrndum Synda, Lukt er þvi Himnarijke hans, Hollde og Bloode blynda. Trweñ a Gud sie soñ og hrein, So mun Lijfed i hvorre Grein, Til hañs a Himna stunda. Haleluja, Haleluja.

Guds Born hier jafnañ bwa sig, Burtu til Himna-Ferda, Holldsins Syrndum og Heimsins Sid, Heilaglega sier forda, Med Trw og Ast siaa upp i Hæd, eñ Gud ofañ med siñe Naad, Fram til þess Funder verda, Haleluja, Haleluja.

Vid Tignar Dag þa tokum fyrst, Til sijn lætur Gud oss koma, samlijka giorer sialfum Christ, J Sælu Dijrd og Lio ma, þa hliotum Fognud, Frid og Hlijf, Fulla Sælu og Eilijft Lijf, Gud giefe oss þañ Sooma. Haleluja, Haleluja.

Kyrie, Gloria, Seqventian, allt so sem Añañ Dag Paaska. Fyrer og Epter Predikun, Þetta Vers Prisvar, Med Ton, Christur reis upp fraa Daudum.

Christur til Himna uppfoor, Sitiande haatt yfer Eingla-Koor, og giefur oss Giafer a alla Lund, Honum sie Heidur a hvorre Stund, Haleluja.

Epter Blessan þeñañ Psalm, Med Lag, Allfagurt Lioos oss byrtest hraatt, etc.

Aller:

Aller Christner nu kaater sie, Christur med Dyrd til Himna stie, Lof synged þier, Lof synged þier, Lof syngium honum aller vier.

Allur Engla Her Himnum aa, Heidur Gudlegañ Christo tiaa, Hædst Lof og Dyrd sw Fylking froom, fagurt syngur med sætañ Room.

Ad Guds Son siaalfur JEsu Christ, sañur Madur er ordeñ viist. Einglar Guds fagna af þvi mest, uña oss þeirrar Sæmdar best.

Son Guds oss tilbioo Samastad, soñ Hviild vor æfeñleg er þad, Lof synged þeim, Lof synged þeim, Lof synged honum uñ allañ Heim.

Arf i Guds Riike eigum vier, Einglum i Sælu samliiker, med Fognude þeir þetta siaa, þacka med oss Guds Millde þa.

Ottast þurfum nu ongva Kvol, Andskota, Dauda, Synd nie Hel, Son Guds og Mariu Sigureñ vañ, Sæmd þeirre ætiid helldur hañ.

Heilagañ Anda hier ofañ gaf, Hiartans Fridur þar kiemur af, hreyster oss fyrer sitt heilagt Ord, Haaskalaust giorer Diofuls Mord.

J Frid og Fognud eiliifañ, frooma Christne oss tilbiir hañ, Aller sem trwa aa Guds Son, erfa þa Heill og Naadar Von.

Hlydne, Von, Trweñ hrein og styrk, Heilags Anda er i oss Verk, upplyser Hug og Horku fær, i Hrygd og Kvol oss stendur nær.

Hvad Gudleg Tign aa helgum Kross, hefur wtvegad fyrer oss, þvi wtskipter Guds Ande sa, af þvi Frædare nefnast maa.

Son siñ hefur Gud hijngad sendt, hañ fær odruviis eingeñ kieñt, nema Guds Ande giefe þa Ment, giore siaalfur vort Hiartad hreint.

Sa Helge Ande af Hæd oss fær, HErrans Gaafur, sem odlunst vær, fraa Ovinum hliifer oss allt uñ kriing, Orkar þess Christi Uppstigning.

Hvor Mañ DRotteñ af Hug og Saal, heidra lofa og Dyrka skal, med Sofnud Eing-

Eingla sijngium Dijrd, So hun verde i Himna heyrd.

O Gud vor Fader eilijfe, æfenlega i Christneñe, Hædst Lof, Pock, Dijrd og Heidur þier, af Hiarta aller sijngium vier.

O JEsu Guds Son Eilijfe, Alls Mañkyns Endurlausnare, Øll þijn Christne med Packargiord, Pier Sijngie jafnañ Lof og Dyrd.

Heilage Ande HErra Gud, Huggare vor i allre Naud, Æfenlega vier þockum þier, þig Lofum og Dijrkum aller vier!

## Siøtta Suñudag epter Paaska, Allur Saungur so sem a Uppstigningar-Dag.

## A Hvijtasuñu Dag, skal fyrst sijngia þetta fyrer Messu Upphaf.



Kom þu goode heilage Ande, fyll upp Hiørtu þiña Trwande, og Breñande



Elsku þijna, i þeim uppkveikiande, hvør med Adskilnade allra Tungna



fagurlega varst kallande, Piooder allar i Eining Trwar, samann



safnande, Halelu ja. Halelu ja.

Skal og sijngia þeñañ Psalm epter, Kom þu Goode H. Ande.



Kom Ande Heilage, J þijnum Gæfum, veit oss þa Vitsmune, vorn Gud vier lofum.

Uppfyll þu þeirra Brioost, þier sem riett trwa, So ad þvi Leybt og Lioost, lære vel bwa.

Elld þiñar Astar nu, J þeim upptendra, so hallde helga Trw, Hafne Leid Synda.

Eilijfe Ande Gud, ædst Lof þier sijngium, Ad þu i eirn Sofnud, af ollum Twngum

Til TrwarEiningar, tookst heidnar Piooder, Med Lærdoom Myskunar, miog vel þær fræder.

Lof Dijrd og Pock sie þier, þu helge Ande, ad Kieñing hreirnre hier, helldur i Lande.

O Gud laat Anda þiñ, wtsendañ vera, ad nye allt þad Kyn, Avoxt kañ bera.

HErra sem hefur frædt, Hiortun Trufastra, Og i Upplijsing rætt, Andans helgasta.

Gief oss i Anda þeim, um̃ þig vorn HErra, og Foorn Christs fyrer Heim, Fræddum ad vera.

Og ad hañs Huggun af, Hellst Fognud tækium, J Arf-Von oss sem gaf, a Himna sækium.

So Guds og Sonar hañs, Saatt a oss komeñ, Fyrer Hiælp Helgarans, Halldest oss, Amen.

Lijka eirneñ þeñañ Hymna, med Lag, Hallt oss Gud vid þitt hreina Ord, etc.

VMlided færde oss Ared hier, aptur þañ Fognud sem mestur er, Pa Huggunar Ande med helgre Grein, HErrans Postula yfer stein.

Logande Elldur lioomar þa, Lijking Twngna þeim byrtest a, Ad Ordfære þeim auked sie, Og so Kiærleikur breñande.

Toludu allra Twngna Hliood, Took þad ad undrast heideñ Piood, Ol-druckna sumer ætla þa, Sem Ande Heilagur bygde hiaa.

Framkom þetta Fyrerheit þar, fra Paaskunum þa lideñ var, Heilagra Daga Tala riett, Sem Logmaal hefur til Lausnar sett.

Audmiwklegana aller hier, Eilijfe Gud þig bidium vier, Himnesta Giof Heilags Anda, J Hiortu vor þu virdest senda.

Hiortu Trwadra Helgud nu, Himneskre Gaafu fadder þu, Vorum Syndum oss frelsa fraa, Frid þiñ laat þu oss halldast hiaa.

Hædst Lof og Heidur Eilijfe, Heilagre Preñing sungeñ sie, Oss bidium Soneñ ad senda, Aftsemdar Giof Heilags Anda.

KYRIE.



Kyrie, Gud Fader sañur, Giæsku og millde Bruñur; af þier Einum flijtur,



allt Gott sem hvor hlijtur, Ele - i son. Christe, Guds Sonur kiære, Christne



syndi Bænheyre, þeim af Hug hreinum, hier a Jord trwum, jaatum og þioonum,



a þig JEsu alleina vonum, E ; le ; i ; son. Kyrie, Lioos Guddoomlega,



liooma og verm þu vorn Huga, ad þier Heilage Ande, oll Guds Born Lof jafnañ



best vande, E ; le ; i ; son.

GLORIA, Dijrd Heidur sie Gude, etc. So sem a Jooladageñ.

HALELUIA, Psalm. CXVII.



Haleluja, allt Foolk nu aa, med sætre Raust ad siungia traust, oll heidna



Þiood, heidra þiñ Gud, uñ Londeñ oll, lætur nu kieña sijn klaar Gudspioll,



## SEQVENTIAN.

Haleluja, Haleluja.



Kom Gud Helge Ande hier, og af Himne hijngad ber, Lioosed þad sem lioomar af þier,
Kom voladra Fader fws, kom greidande Gæfur oss, kom helgasta Hiartnaña Lioos.



Huggareñ sem hiaa var best, Heill fær Saaleñ af þeim Giest, Endurnæring miwk og mest.
J Ervide ert þu Hviild, i Of-Hita Stilling milld, i Harmenum Huggun gilld.



Blessad Lioos þig bidium nu, Brioosted iñra fyller þu, hiaa þeim sem þier hallda Trw.
Sie oss þitt Fullt inge fraa, fiñst eckert Gott Moñum hiaa, ei maa nockud Saklaust faa.

Lauga þad sem Saurugt sier, Vokva þad sem visnad er, Lækna þad sem Leinstur ber.
Mijk þu stirnad miog og spillt, verm þad sem er Froste fyllt, greid þess Veg sem geingur villt.

Veit þeim sem þier vel trwa, Von allre til þijn snua, signada Giof Giofallda.
Gief Dygdana gledeleg Not, gief hialpsamleg Æfe Prot, gief Fognud um Allder Allda.

CREDO, Vier trwum aller a eirn Gud Fodur, etc. Eins og a Jooladageñ. Versed af Predikunar-Stoolnum Nu bidium v er Heilagañ Anda. Maa og syngia þetta Vers i Stadeñ hins, Prisvarsiñum, fyrer og epter Predikun, med Ton, Christur reis upp fraa Daudum.

Christur siñ Anda sende, Sa oss Lijfs Veigeñ kiende, Og huggar vora hrellda Lund, Hellst þegar kiemur Dauda-Stund, Halelnja.

PRÆFATIAN Byriast svo sem a Jooladageñ.

Sañlega er þad tilheyrelegt og riettvijst, skylldugt og heilsusamlegt, ad vier

vier Drottenn alla Tijma, hæleitlega heidrum og lofum þig, fyrer JEsum

Christum vorn Drottenn, hvør upp er farenn yfer alla Himna, sitiande til þinar

hægre Handar, og hefur sijnum Utvøldum Børnum giefed þann fyrerheitna

Heilaga Anda, hvar fyrer allur Heimurenn stoorlega sig gledur, med Hiartans

hædsta Føgnude. Lijka eirnenn þeir Himnesku Kraptarner, og Einglanna

Maktarvølldenn, aasamt med þeim sijngium vier eirnenn Lof þinne Guddoomlegre



Majestatis Dijrd og Æru, fyrer utan Enda, Oaflaatanlega seigiande

SANCTUS, So sem a Jooladagen. Epter Blessan.



Kom Skapare Heilage Ande, i Hug og Hiarta Trwadra nu, Himneskre



Naad uppfyllande, Hiørtun þau sem ad skapader þu.

Eirn Huggare sem alldrei braast, ertu og Guds Fodurs Gaafa hædst, lifande Brunnur, Elldur, Ast, Andleg Smurning allrar Naadar stærst.

Siøfolld er oss þijn Ast-Giøf kiend, eirn Fijngur ertu at Guds Hægre Hond, Kroptug Lofun af Christo send, kiennande Twngumaal um oll Lond.

Lof þitt i vorum Hug uppkveik, Ast semd þijn ætijd sie i oss rijk, Eydande Holldsins Ostirkleik, Ast veite oss ollum Gaafa slijk.

Rek frar oss Satans Svik og Raad, send þu oss nu þinn blessada Frid, leide oss so þijn eilijf Naad, ad allan Voda vel skiliunst vid.

Siaalfann Fodur og Son, hans nu, so þeckium

heckium, veit oss Vitsmune, og beagia þeirra Ande þu, ætijd gief jad vor Trw stödug sie.

Soñum Fodur og Syne mest, Sie Lof, Dyrd, Heidur, Vellde, Traust, og helgum Anda sem huggar best, hvad um̃ Allder verde Endalaust, Amen.

Aññañ Dag Hvijtasuñu og hiñ Pridia, allur Saungur fyrer og epter Predikun sem a sialfa Hvijtasuñu, eñ Præfatian maa undañtakast. Medañ Sacramentum utdeilest, Pier sie Lof og Dyrd, sem Aññañ Dag Joola. Sieu ecke Communicantes, þa sie sungeñ þesse Psalmur.




þiña Trwadra Hiortu, Hug og Sied, heita Astsemd þeim kveiktu med.







Bless-

Blessada Lioos og besta Saad, Byrtast laat oss þijn Lijffsins Raad, Kieñ þu oss riett ad þeckia Gud vorn, Pess Fodurs oss ad jaata Born, HErra Gud vernda oss Villu fraa, so Vitsku adra ei gyrnunst aa, eñ trwa riett a Guds Son, Af Hiarta ollu til hañs hafa Von, Haleluja, Haleluja.

Heilage Elldur Huggareñ sæte, Hiaalpeñ þijn jafnañ ad oss giœte, fram̃ ad hallda Piñ onustu þiñe, Prauter aungvar ad oss line, HErra Gud fyrer þiñ hædsta Maatt, Holl-ds Veikleika vorn styrk þu praatt, Riddara-lega so reynder hier, Rijke þitt sijdar feingium vier, Haleluja, Haleluja.

Epter Blessan, Kom Skapare Heilage Ande, etc. ut supra.

## A Trinitatis Haatijd, Messu Upphaf.

Nær þvi med Ton, JEsu Christe vier þöckum hier.

GUd vor Fader vertu oss hiaa, og vid For-dæmingu vara, Leystu oss ollum Lostum fraa, Laat vel af Heime fara, Moot Diofle fiert vor Hiaalp og Hlijf, Hallt oss vid Trwna fasta, Til þijn laat þu oss þyrsta, þi-er af Hug ollum treysta. A oss Eign þijna ætijdsiaa, Og allar Christnar Pioder. Fra Satans Svikum leider. Soñum Guds Vopnum strijder. Amen, Amen, Pad sie Jaa, Samsijngium, Haleluja.

JEsu Christe vertu oss hiaa, og vid For-dæmingu vara, etc.

Heilagur Ande vertu oss hiaa, og vid For-dæmingu vara, etc.

Hier næst skal sijngia þetta Messu Upphaf.





Vier lofum og dijrkum ha - na, hvIad hun framde vid oss Mys-



kun se - me sij - na. Vier lofum og dijrkum Gud Fødur og Son, -



og Heilagañ Anda. Dijrd sie Fødur og Syne og helløgum Anda. So



sem hun var ad Upphafe, og er eñ nu og jafnan, og um̃ Allder Allda, Amen.

Kyrie, Gloria, Credo, Sem á Hvijtasuñu.

HALELUIA,



Ha - le - luja. Heyr þu hin Sæla, Blessad - - - a, Dijrdar-



. . . a, Dijrdarfulla Preñing, Fad · er og Sonur og Hei-



lag · ur Ande, Myskuna þu oss. Ha · le · luja.

SEQVENTIAN.



O Þu gøfuglega Preñing. Fyrer þig erum vier skapader, eñ sañe Eilijfleike.
O Þu virduglega Eining. Fyrer þig erum vier frelsader, þu hædste Kiærleike



Lijd allañ þiñ Drotteñ vernda þu, hoolpeñ gior, frelsa og af øllum Syndum hreinsa.
þig Almættugañ þa gøfgum vier, þier sijngium vier, Lof og Dyrd og giorum Packer.
Uñ O - endañ - legar Allder Allda, Amen.

Epter Predikun, Heidrun Gud Fødur, etc. Hvørt Vers sijngia skal jafnlega allt til Adventu, Præfatian byriast so sem a Jooladageñ. Sañ-

Saülega er þad tilheyrelegt og riettvijst, skylldugt og Heilsusamlegt,

Ad vier alla Tijma og i ollum Stødum, lofum þig og þockum þier, þu hei.

lage Herra, Almaattuge Fader og Eilijfe Gud, fyrer Jesum Christum vorn

Drotteñ. Þu sem med þijnum Eingietnum Syne og heiløgum Anda, ert eirn

Gud og eirn HErra. Ecke i Einingu Personuñar, helldur i Þreñingu eirn

rar Understødu. Þviad allt þad sem vier trwum fyrer þijna Openberan,

um

um̃ þijna Guddoomlega Dijrd, pad sama trwum vier um̃ þiñ Eingieteñ

Son, pad sama og eirneñ um̃ Heilagañ Anda, fyrer utañ allañ Mißmun

nockurs Adskilnadar. So ad i eirnre sañre og ellijfre Guddoomsins Vidur-

kieñingu tilbedeñ verde Sundurgreining Personaña, og Eining Veruñar,

med jafnre Majestatis Dijrd og Heidre. Hvoria Majestatis Dijrd ad lofa

Einglarner og høfud Einglarner, himnarner og aller himnaña kraptar, Cheru-

bim og so Seraphim, med samhlioodande Oaflaatanlegre Roddu seigiande.

SANCTUS.

Heilagur, Heilagur, Heilagur, ertu DRottenn Gud Allsheriar, Himen og Jord

eru full af Vallde Dijrdar þinnar, Hoolpna giør þu oss i Upphædum.

Blessadur sie sa sem kiemur i Nafne Drottenns, Hoolpna giør þu oss i Upphædum.

A medann Sacramentum wtdeilest, skal siingia so sem a Jooladagenn.

Epter Blessan þennan Psalm, Med Ton, Hallt oss Gud vid þitt, etc.

ÆAnnheilagt Lioos, Samiofn Prenning, J sialfre Veru Gudleg Eining, þu giører hiaa oss Guddooms Verk, glogt siinande þinn Allmatt og Styrk.

Himen og Jord og Hafed vijdt, Herma oss Krapt og Vellded þitt, Daler og Fi-
øll

oll þvi dylia sijst, DRotteñ ert þu yfer ollum vijst.

Sooleñ umgeingur sierhvørn Dag, so Twngl þo hafe añad Lag, Stiornur i Hlydne hallda sig, HErra eilijfañ þær saña þig.

Dijr og Fuglar uñ Lopt og Jord, allt hvad i Sioonum hefur Ferd, med Kost og Edle kieña ad sia, þad Kraptur og Vitska þijn sie har.

Þu hefur Himen wtþaned vijdt, þaked med Vatne Efra hitt, uñ Jord geingur hañ allt uñ krijng, Okyrrañ setur þeñañ Hrijng.

Þu stidur, prijder, stioornar riett, stendur so allt sem hefur sett, so darsamlega, ad eingeñ Mañ, wtskijra þad nie skoda kañ.

Hvørsu meigum þa veiker vier, Vitsku þijna rañsaka hier, uñ Skiepnur þær vier skodum þratt, ef skynia kuñum harla satt?

Vier siaum hun er skopud Skijr, Skilvijs, hrein, morg, Þorf og Dijr, O! hvad Dyrdlegre þu DRotteñ ert, Dyrd heñar hefur þu alla giort.

J þiñe Hende er Himen og Jord, hvor kañ wt-seigia þijna Dyrd? miog darsamleg er oll þijn Stioorn, eilijfañ jatum þig HErra vorn.

Fader Sonur og Ande hreirn, eilijfur Gud i Þreñing Eirn, af Hiarta lofum aller þig, Amen sijnge nu hvor uñ sig.

**Þañ 1. 2. og 3. Suñudag epter Trinitatis, Messu Upphaf, Gud vor Fader vertu oss hia.** Kyrie og Gloria sem Fyrsta Suñudag i Adventu. Halelnja, Heyr þu hin sæla. Seqventiañ, O þu Gøfuglega Þreñing. CREDO, Vier trwnur aller a eirn Gud, Skapara Himens og Jardar, etc. Epter Predikun, Heidrum Gud Fodur Himnunra. Medañ Sacramentum er wtdeildt, O Guds Lamb Saklausa. Edur añar goodur Psalmur, sem til er giordur i Grallaraum, og Tijmanum hentar, Vide supra Dominica 1. Adventus. Sieu erke Communicantes, þa ma sijngia, Aller Guds Þioonar athugeð, sem 4. Suñudag, epter Þrettanda. Og so skal sijngia allt til 10. Suñudags, fyrer utañ Introitus og Exitus.

Epter Blessan



HErra Gud i Himeriike, hañ oss siñ Vilia kiende, þa hañ ofañ a Jard-



Rijke, þau Tiju Bodord sende.

Fyrsta Bodord einkum ætt, Af øllum Hug ad merkia, Hiæ-Gude aungva þu hafa mætt, Hañ eirn skallt Elska og Dijrka.

Añad. Þu skallt ad Onijtu, alldrei med Guds Nafn fara, Helldur bidia af Alvøru, Heidra og Þacker giøra.

Þridia hañs Bod Hugleida skallt, Hvijldar-Dageñ ad helga, Guds Ord heyr þu og giarnañ hallt, Gyrnd Heimsins skallt ei fylgia.

Fioorda. Heidra med fullre Ást, Fødur og þijna Moodur. Vid Yfer-Meñ skalltu alldrei siæst, Ohlijdeñ, stoor nie Reidur.

Fimta. Ei slæ med Heipt i Hel, Holld Maña skallt ei meida, Helldur forda og frelsa vel, Fræ Voda hvørn Mañ leida.

Siøtta. Vid Hoordoom varast skallt, Vilia Holldsins ei giøra, Hiæskap eda Hrein Lijfe hallt, Hoof læt þier þeckast vera.

Siøunda. Einkis ættu Fe, Okra, Stela nie Ræna, Helldur styrkia ad hallded sie, Hiælpa, Giefa og Læna.

Attunda Bod. Ei mæla mætt, Mein-Vitne Roog nie Lijge, Næunga þiñ þu afsaka ætt, ad Heidre hallda meige.

Nijunda. Ei skallt ægyrnast, añars Ma-

ñs

ns Hws nie Pioona, helldur ad meige hañ vidhalldast, Med hvorskins Eigu sijna.

Tijunda hreirn i Hug vertu, Hañs Kviñu gyrnstu alldrei, helldur Oska ad Ast og Trw, Vid Eigeñ-Mañ siñ hallde.

Gud Fader, Sonur og Ande hreirn, ofs virdest Nad ad senda, Ad þesse Bod hañs hvor og eirn, Hallde til Lijffins Enda, Amen.

## Pañ 4. 5. 6. Suñudag epter Trinitatis, Introitus.



Lifande Gud þu lijt þar a, og lættu þig þad mæda. Þijn Gudleg Ord
Þijna hellaga vier fiñum fæ, flester ofs auuna hræda.



ei gillda nu, giør slokeñ er nær heilog Trw, hlæ Børnum allra Pioda.

Frambera jafnañ falska Lyst, sem fiña sier til Sooma. Brioost þeirra eru samlynd sijst, Sañleik Guds ei vid koma. Eirn velur þetta, Añar hitt, wr Mæta villa Foolked þitt, Allmiog þo utañ looma.

Hepte Villur og Hræsnis-Meñ, HErrañ med sijnum Anda. Eydest sw Tunga sialfshæleñ, seiger, hvor mai moot standa? Vier einer hofum Vald og Riett, verdur halldast hvad hofum sett, Hvor skal vid ofs uñvanda?

Þvi seiger Gud: Eg vakna verd, Volader of þwngt bera, af Pianing stynia þwngt a Jord,

Jord, Peirra Kvein hlijt eg heyra. Blessad Ord mitt þvi byrtast skal, Berlega þeim þad þyggia vel, og Aumra Uppreisn vera.

Gróſinum bored Silfur i Elld, sañast skijr ara sijdañ, Eins skal Mañ vid Guds Ordeñ milld, Ætijd stødugur bijda. Pad vill med Krosse verda reint, vottar þa Krapt siñ Ordæd hreint, Lioomar um̃ Landed vijda.

Vor Gud og HErra vilier nu, vardveita Ord þitt hreina, og Æfeñlega þvrmer þu vid þeim sem oss þad meina, þvi Gudlaust Foolk i allañ Stad, eykst, nær þeir hafa Yfer-Raad, Sem kiefia oss Christne þijna.

Fødur, Syne og Anda sie, Ædst Dijrd um̃ Jord og Himeñ, Eins sem hun var ad Upphafe, aan Enda verde frameñ, Kieñ oss ad hallda Christeñ Sid, Kvittast og skiliast Synder vid, Sa þad vill, sijnge Amen.

## Epter Blessan.



Hædste Gud Herra millde, Huggun og Raad oss send. Bode nu Verolld naade, Villa Sem Madur verda villde, vora leysande Aund.



er heñe kiær, eitrud af Ormsins Raade, Symdar siñar ei gaade, er þo ei endud nær. DRotteñs Lærdoomur dijre, Daglega lioomar nu, epter þeim aller giøre, af Ast og sañ-

sañre Trw, komed er ad Heims Enda, epter vors HErra Spa, Gud virdest Naad oss senda, so til hañs kyñum venda, Millde og Myskun fa.

Fridur er ei a Jordu, Allment bad geingur lioost, Heims Piood i Orde og Giordum, er full af Heipt og Pioost, Otrwer og Jllrader, eingeñ er Ast i þeim, Hædste HErra bad haade, hrakter eru og smader, Aumer i ollum Heim.

Sia þu Synduge Madur, Sok þijn er mørg og þwng, Milldur Gud er moodgadur, miñst þess hañs Hefnd er straung, hvad siaalfur Christur seiger, uñ Sam-Pioon Omilldañ, hañs Kvol a Hefndar-Deige, Hord kom, so liñte eige, þvi Naad Guds gleymde hñ.

Gledst eg af þeim Guds Ordum, greiner oss Abraham, til Lijssins leidder verdum, Lazarus so foor fram. Kom Gud med Millde þiñe, miñstu þa riettu Tijd, so Hiord þijn Hiarstod siñe, Huggun er Ondu miñe, Erfd i Eilijfum Frid.

Uñ Volada i Anda, allt þetta skilia skallt, HErrañ vill hiaa þeim standa, hindrar þa eckert Vällд: Hvad Christur hefur heited, hañs Fader veita vill, vel ad Guds Vilia leited, vorunst Ovinar Eitred, sigrum hañs Svikeñ ill.

Peñañ Loffsaung nu laatum, liña þo miñsunst Eitt, Aur-Eigum Adstod veitum, alldrei skal oss þad leidt, Huggun þa Hool ef lijte, Hræsnis Sid leggium af, Heilræde þaug hver nijte, Hendeñ Vinstre ei vite, hvad sw hin Hægre gaf.



A Jons Messu Baptistæ, Messu Upphaf, Lifande Gud þu lijt þar a,
Og allur añar Saungur Fyrer og epter Predikun, sem fyrerfarande Suñudag. Medañ Sacramentum wtdeilest, Pier sie Lof og Dyrd, etc.

Epter Blessan skal siungia þeñañ Psalm, med Lag, Allfagurt Lioos etc.

Eilijf-

EJlijfum Fodur oll hañs Hiord, af Hiarta synge Packargiord, Med siñar Naadar sætu Ord, sende Johañem oss at Jord.

Hañ baud ollum ad hafna Synd, hræddeDramblaatra Maña Lund, hædsta Doomarans feinge Fund, fram til þess være lijtel Stund.

Hier med þa Lydur hræddur var, Hiaalpar Veg sañan predikar, sialft Lamb med Fijngre syner þar, sem Mañkyn vid Gud forlijkar.

Stodugur þeñan Bodskap ber, byrte Christs Komu fylgia sier, eins sem Dag Stiarnañ undañ fer, Uppgaungu Soolar kuñgiorer.

Phaeiseaarner frooman Mañ, feingu ei beigt, nie Anda þañ, Elias Añañ holldum hañ', Hræsne diarflega straffa kañ.

O! Fader þig af ollum vier, ad þu' vor Hiortu uppveker, svo eflaust trwum aller þier, eins sem Johañes Vitne ber, Amen.

---

## A Vitiunar-Dag Mariæ, Messu Upphaf. Med Hiarta og Tungu,

hvor Mañ synge, etc. Eins og at Kyndel-Messu. Allur añar Saungur,

Sem fyrerfarande Suñudag, Medañ Sacramentum wtdeilest, Pier sie Lof og Dyrd, etc. Epter Blessan skal syngia þeñañ Psalm, med Hymna Lag.

SAgnadar Bodskap byrte þa, burt foor laangt af Galilæa, Frænd-Konu sijna kom ad sia, eg kvadde Jomfrw Maria.

Hædsta Glede i Hiarta var, heilagrar Elisabethar, þa Andeñ heñe aavijsar, ad Mey Maria Guds Son bar.

Frelsarañ, sem siñ Fodur vid, forlijka skyllde Mañkyned, sem med grimlegum Glæpa Sid, Gud hafde styggt, og broted vid.

Fedur Ofkudu adur þess, ad kiæme Heime til Hiaalpræde s, þañ Fyrstur Maña medkiendest, i Moodur-Lijfe Johañes.

Zacharias

Zacharias ei seigia kan̄, Sokum Maal-leysis Fognud han̄, at sier þo Merke synde han̄, sialfan̄ Gud vera nalægan̄.

Nærrar Guds Christne heilög Hiord, Hws-Korn þetta var fyrst a Jord, sem Kviñu Sædis sætu Ord, Sañar, og lijfer stodug Giord.

Herodes med Mañdrapum þa, Makt sijna villde stadfesta, Caiphas leidde Lærdoom fra, liet Guds Kieñemeñ Dauda fa.

So er nu Christneñ sijneleg, særd og þvijngud at allan̄ Veg, Strijd, Villur og Vijg ymisleg, vekur nu grym̄e Satan mieg.

Ad Heimsins Styrk og Hollðsins Matt, Hialparlaus er hun Dag og Natt, Christe veit heñe Hlijf og Satt, Heidur þiñ so hun sijnge hatt, Amen.

## Pañ 7. 8. 9. Suñudag epter Trinitatis, Messu Upphaf.



Mitt Hiarta hvar til hryggest þu, J Harme og Trega velkest nu, fyrer vall-



tañ Veralldar Aud, set þijna Trw a sañañ Gud, sa allt skapade fyrer sitt Bod.

Yfergiefa þig ei vill nie kan̄, alla Þorf þijna þecker han̄, hañs er Himen og Jord. Miñ sæte Fader og sañe Gud, þu send mier Hialp i allre Naud.

Þu ert miñ Gud og Fader kiær, þitt Barn alldrei forlaated sær, Ast þijn er mikil og milld, eñ þo mig mæde Eymdeñ hørd, eckert hef eg Traust a Jord.

Rijkur af Gotze gledur sig, Gud miñ i þier og hugga mig, þo hier forlíteñ sie, það er mijn Trw og Eflaus Von, Adstod veiter þijnum Pioon.

Hiaalpare Gud Helia var, Pa Himen lukteſt ſo ei rignde þar, J þeirre Daart Tijd, a Sidons Lande Ekkia ein, allvel fædde Drotteñs Svein.

Þig maatte eingeñ mæda Kvøl, Med þvi Gude þioonader vel, og honum hlijdeñ varſt, Hrafnar komu med Kiot og Braud, Kvølld og Morgna ad ſvipta þig Naud.

Einerber Trie ſatſtu under þa, Eingell Guds kom og liet ſig ſiaa, bar þier Vatn og Braud, Til Orebs Fialls þar epter gieckſt, aungva Neyd a Veigenum fieckſt.

Egyptſkum Joſeph ſelldur var, Saklaus ſat i Faangelſe þar, Gud leit med Giædſku hañ, Med Herra Nafne hefur hañ giædt, Til Heidurs allre ſiñe Ætt.

A Daniel miñteſt Gud ſo gloat, J Grof Leona þa var honum ſockt, Siñ Eingel ſende wt, Fædu liet honum færa þar iñ, Fyrer Habacuch Pienara ſiñ.

Sañur Gud byrte þa ſitt Valld, Sveinum Premur var fleygt i Elld, ſiñ Eingel ſende heim, Baaled þa ecke Breña maa, Burt wr Voda frelſade þaa.

Hiaaſtod Guds Jonæ hlijfde þar, J Hvalfiſkenum byrgdur var, Priaa Daga og Nætur Priaar, Eñ fyrer Guds eilijft Raad, Aptur hefur hañ Landenu naad.

Þitt Rijke Drotteñ þrijtur ſijdſt, þitt Valld er ſtødugt jafnañ vijſt, A þier er allt mitt Trauſt, Eilijft Gotz hefur eckert Taal, Audga med þvi mijna Saal.

Stundlegañ Heidur eg hyra ei aa, Himneſkañ villde eg giarnañ faa, Hvorn þu hefur keypt, Med þijnum Dauda og dijrre Pijn, Drotteñ bid eg heyrdu til mijn.

Allt það Verølldeñ er af full, Eigner, Gotz, Silfur eda Gull, Stundlegt Skraut og Skart, Lijteñ Tijma það laanad var, Lijknar ecke Saaluñe par.

JEſus Guds Son eg þacka þier, Peſſa Viſku þu ſijnder mier, Fyrer þitt Gudlegt Ord,

Ord. Veit mier støduga Von og Trw, væ-
nst er Saalu Huggun sw!
Lof og Heidur a hvørre Stund, Hædste
Gud, sie þier a alla Lund. Þig Fader þess eg
bid, Eilijfañ gief oss Andar-Frid, og Arf
Himens þa skiliunst hier vid!

Epter Blessan.



Gud Myskune nu øllum oss, og giefe Blessan sijna. So Vilia
Og laate sijns Andlitis Ljoos, til Lijfs eilijfs oss skijna.



hañs og Verkeñ øll, i Verølld þeckia kyñum, og JEsu Christi kroptug Heill,



kuñug sie øllum Moñum, ad giarnañ hlijde hønum.

Þier Gude Lof og Þackargiord, Leir Heid-
nu jafnañ jaate, Og fagne allskyns Foolk a
Jord, Fagrañ Saung heyrast laate, ad þu
Doomare ert a Jord, Illsku lijdur þvi eige,
Vernd og Upphellde er þitt Ord, aft Foolk
styrker, svo meige, gaanga a riettum Veige.
Þacke þier Gud og lofe þig, Þitt Foolk fyr-
er þa Millde, Avoxt her Jord og audgar sig,

 Og

Ord þitt er vort Upphellde. Gud Fader Son og Ande hreirn, oss blesse allasaman, vegsame han og Otteſt eirn, allt Mannkyned um Heimen, Seigium af Hiarta, Amen.



## Pañ 10. 11. og 12. Suñudag epter Trinitatis, Messu Upphaf.



Heimile vort og Hwseñ med, nema Herrañ byggia villde, Arlega blesse Bw og Fied, Biorg svo hvør hlioota skyllde, Af Glædsku



hüs og Guddoms Naad, sin giarnañ efter allra Naad, añars vor Idia ei gillder.

Nema Gud sialfur styrke Stad, og stiorne Borg og Lande, Hlijfe og giæte ollu ad, So ongvu stofneſt Vande, Giefe og sialfur goodañ Frid, gagnlauſt er þo vake Lid, fær ongvu fordad Grande.

Vera upp ærla veiter ei Þorf, nie Vøkur længar ad hafa, Abyggiu Vijl og ærañ Storf, Audlegd pad kañ ei giefa, Hugsiwker eta Harma-Braud, Eñ hollare Fædu giefur Gud, Sier Liwfum, þa þeir sofa.

Lijted Avøxt og ydar Born, af Gude þau hafed þeiged, Hallkvæma fær þau Hiælp og Vorn, hañs Gæsur fordañ feiged: Forsioon vill hañ þeim veita vel, Vijs þeirra Fæda hun ævallt er, Siælfer þad saña meiged.

Eins sem Pijlur ecke fær, oflugur hefur i Hende,

Hende, þaingad sem huade hañ sier til Fiar, siethvorre fra sier rende MattGuds og Vilia Merker þad, Mañ og Kviñu vr ymsum Stad, Til Samvista hañ sende.

Sæller sa Mañ, Peim giefur Gud, goodañ Fiølda Barna, Ovinum kvijder ecke vid, þeir yfa hañ ei giarnañ, J Borgar-Hlide nær yrdast a, Drugga Hiastod hefur sa, Svijvirdu sier ad varna.

Fodur, Syne og Anda sie, Æst Dijrd uñ Jord og Himen, Eins sem hun var ad Upphafe, an Enda verde frameñ, Kieñ oss ad hallda Christeñ Sid, Kvittast og skiliast Synder vid, Sa þad vill, sijnge Amen.

## Sieu ecke Communicantes, þa skal fra þessum Suñudeige allt til Adventu, sijngiast þesse Epterfylgiande Psalmur, Ton, Oviñañleg Borg er vor Gud.

VErolldeñe villde Gud, Vinattu slijka veita, ecke sparade eilijf Naad, Eingieteñ Son siñ sæta, Helldur wtgaf hañ, Hialparañ Gud og Mañ. Trwa hvor Christo kañ, Kvit.ur vid eilijft Bañ, Himna-Vist hlijtur mæta.

Ei sende Gud siñ Einka Son, ad Heimeñ dæma skyllde, Helldur ad feinge Hialpar-Von, Hvør a hañ trwa villde. Hvør sem honum hverfur fra, hardañ Doom mun fa, Pvi trwa vill ei a, Eingieteñ Guds Son sa, Øllum baud ædstu Millde.

Atkvæde Doomsins er so vart: J Heim kom Lioos þad eina, Meñ elskudu so Myrkred svart, Meir eñ þad Lioosed hreina. Vallda þvi Verkeñ lioot, Villd Guds sa giorer mot, Af Hatre og Heyptar-Root, Hafnar ad viña a Boot, ætlar so Jllsku ad leyna.

Hiñ er Sañleika fylger fast, Feilar sier ecke i Lioose, þvi Athøfn hañs ei lijdur Last, Laune DRottens þo hroose, Goodverk þau greine eg hier, Guds Naad sem vañ med þier, Riett Trw þa auglijst er, Avøxt ef goodañ ber, Hvørn Christi Born sier kioose.

Epter Blessan þennan Psalm, med Lag, Vor HErra JEsus visse þad, etc.

SÆler eru þeir aller nu, ann Flecks lifa i riettre Trw, J Guds Logmaale gaanga, Vel er þeim sem hans Vitnisburd, Viliuger geyma hier a Jord, af Hug þar epterlaangar, Pvi hvorier giarnan a Guds Veg, gaanga jafnan, þeir varast mieg, Misgiörd og Synd margfallda. HErra sem Almaattugur ert, öllum hefur þu boded bert, Heilog Ord þijn ad hallda.

O Gud, veit mier ad Orded þitt, alvarlegana Lijfed mitt, af Hiarta hallded giæte, Nær sem eg blessud Bodord þijn, Berlega set fyrer Augu mijn, Ofan og Smaan ongre mæte, af riettum Hug eg þacka þier, Pu hefur kient, og sijnder mier, dijran Riett Dooma þinna, þijn Heilog Bod eg hallda vil, HErra, medan eg life til, Laat mig þitt Filge finna.

Hvornen sin Veg eirn Ingis=Man, Ostraffanlega gaanga kan? Ef sier vid Ord þijn helldur: Eg leita þijn af heilum Hug, Hialp, so med ongvu verde eg, fra þinne Kienning felldur. J Hiarta mijnu hef eg fest, helog Ord þijn, so fordadest, moote þier Grand ad giöre. Lofadur siert þu sanne Gud, Sannleikan þinn og Heilog Bod, Gief þu eg giarnan lære!

Med Vorum mijnum eg vijda skal, Vitna um þinna Dooma Tal, Sem er þijns Munns Adkvæde, af þinna Vitnisburda Veg, verd eg gladur og feigen mieg, Eins sem af allskins Aude, Optast Ræda og Orden mijn, Eru um Heilog Bodord þijn, Og Veg þinn vel umskoda, Pijnu Riettlæte ætijd ann, Ordum þijnum ei gleyma kann, J Sælu, Sorg og Voda.

Heidur, Lof Dijrd med hreirnre Trw, Himneskum Gude Fodur nu, sætlega skulum sijngia, Hans einka Syne JEsu Christ, sem oss hefur med Dauda leyst, Kient Leid til Lijfs ad gaanga, Heilogum Anda sem jafn er þeim, upplijser oss i þessum Heim, Og eykur Christenndoomen, Fyrer Guds Ord og Frelsarann, Finnum, Elskum og Eignunst hann, Sa þad vill, sijnge Amen.

Fan

## Þañ 13. 14. 15. Suñudag epter Trinitatis, Messu Upphaf.



Konung David siñ kiende, klaga eg miñ Vaunmaatt, Reyne eg þad þraatt,
Merke eg i mijnu Lynde, maklega Guds Osaatt,



giøra þad Glæpa Synder, siñ Gud miñ allar Stunder, styggia a margañ Haatt

Miñ Gud, eg þier jaata, jafnañ eg Synd-er vañ, so eg i øngvañ Maata, Ast þijna med mier fañ, helldur meir ødru añ, Holld trwe eg hvørn Dag naude, Heims ad safna Aude, sem mig þo svijkia kañ.

Myskun virdstu mier veita, miñ DRotteñ, þess eg bid, Synder mier Svika leita, sie eg þeim ecke vid, jafnañ mig fyrra Frid. Vid Fiandans Flærdar-Skepte, Frelsareñ mijn giæte, aa þessare Naadar Tijd.

Synder mier so ei kiæme, Sæla ad missa Von, þijn Ord þo Illverk dæme, Andar þau bæta Tioon, Vor Gud mier veit þa Boon, ad stødugur standa kyñe, so Flærd ei ugeñ mig giñe, fraa þiñe Sañleiks Sioon.

Christe, þu ert alleina, Eirn Gud og Hiaal-par-Raad, hefur þu Guds Orded hreina, Heims Synder eirn afmaad, þeir sem þa þyggia Daad, lætur þaa Heidur hlioota, og Himna Arfs vel nioota, med Glede og good-

re Naad.

Hædste Heilage Ande, Hafande Guddoms Mekt, sem Sannleik Christmum kiender, og Kiærleik efter frekt, Med þinne Naad og Spekt. Medann life eg hier i Heime, i hreinre Trw mig geyme, Fraa allre Synda Sekt.

Allur Annar Saungur sem Fyrerfarande Sunnudag. Epter Blessan.



Være nu Gud oss ecke hiaa, Jsrael seigia mætte. Pvi vier erum Hiørd
Være nu Gud oss ecke hia, oll Von oss broten hætte.



aum og sinaa, sem allskins Piooder settiast aa, aangra med ollum Hætte.

Heipt þeirra er so a oss stryd, Ef Gud veite þeim Leyfe, uppsvelgdu oss a einre Tijd, alla med Saalu og Lijfe, sem Votn søktu og eyddu oss, Yfer Saal vora geinge Foss, Mykell og haar vr Hoofe.

Pock sie Gude sem þad ei gaf, þeirra Tennur oss myrde, So sem Fugl Snoru sviptur af, Saal vor þar fraleyst yrde, Brast Snarann og burt sluppum vier. Blessad Guds Nafn vor Adstod er, Sem Heimenn og Himna giorde.



## A Michaelis Messu, Messu Upphaf.

Esajas

Esajas Spaamañ odladest ad faa, ad hañ i Anda Drotteñ sitia saa, J

sijnu Velldis Sæte, Hañs Tign var stoor, Hañs Klæde uppfylltu hañ

allañ Kor Tveir Seraphim stoodu hia honum þar, Sex Vænge ad hvør

þeirra bar, med tveimur byrgdu þeir sitt Andlit klaara, og ødrum tveim huldu

þeir sijna Fætur bera, med Þridiu Tveim flugu þeir braatt, moot hvør od-

rum



rum hroopande svo haatt. Heilagur Gud vor HErra Zebaoth. Sem hefur
Heilagur Gud vor HErra Zebaoth.
Heilagur Gud vor HErra Zebaoth.



Jordena uppfyllt med myked Gott. Af þeim Hlioodum skalf Grundvollur



og stoorer Stoolpar, og Hwsed fullt med Reyk og Poku vard.

Maa og syngia þesse Ord under sømu Rootum.

Esajas Spaamann i Anda saa, Eilijfann Gud hædsta Stoole sitia aa, i lioomande Tign, Makt og Heidre haa, hanns Klæda Falldur fyllte upp Kyrkiu þa. Tveir Seraphim stoodu þar honum hiaa, hver hafde Vænge Tvenna Priaa. Tveimur hver umm sitt skiæra Andlit braa. Adrer Tveir Hulning þeirra Footum saa. Med Pridiu Tveimur flaug hver mest sem maa, mille siin hroopande haatt, og þetta tiaa: Heilagur Gud vor HErra alls Walld aa, Heilagur Gud vor HErra alls Walld aa, Heilagur Gud vor HErra alls Walld aa,

aa, Hañs Dijrd uppfyller øll Lønd stoor og smaa. Stoolpar og Grundvøllur skalf vid Hliood þau̇ aa, Hwsed vard fullt af Reyk og Poku þa.

Allur añar Saungur, sem Fyrerfarande Suñudag. Credo, Vier trwum aller a eirn Gud, Fødur Almaattugañ, etc.

Epter Predikun i Stadeñ almeñelegrar Þackargiørdar, ad Gud hañ vardveiter oss fyrer sijna H. Eingla, þa skal syngiast þetta, TeDeum Laudamus, i Islendsku.



O Gud vier lofum þig, Vier jaatum þig eirn DRotteñ og HErra. Þig

Eilijfañ Fødur, øll Heims Bygdeñ Vegsamar. Þad sama giøra og þjner



Einglar, Himnarner og aller Vollduger Einglar. Þig lofa Cherubim og

Seraphim, med Oaflaatañlegre Røddu, seigiande. Heilagur. Heilagur.
Hei-



Heilagur ert þu Drotteñ Gud Zebaoth. Himnarner og so Jordeñ, eru full



af Vallde Dyrdar þiñar. Sa Dyrdlege Søfnudur allra þiña Postula,



Jaata þig vera eirn sañañ Gud. Pad sama giører alla Tijma, lofleg Tala



Spaamañaña. Þig lofa aller Þijslarvottar, med fullkomlegum Vitnisburde



þiñar Dyrdar, Aller Gudhrædder og Utvalder, jaata þig um̃ alla Heims



Byggdena, eirn Fodur hiñs hæsta Valldz og Dyrdar. Og þiñ Einka

Son JEsum Christ, hallda þeir med þier eirn saṁan Gud. Þar til hiṅ

Helga Anda eirn saṁan Huggara. O Herra Christe, þu ert Kongur Dijrd-

areṅar. Þu ert eilijfur Sonur þijns Fodurs. Þu forsmaader ecke Jung-

frwr Holld yfer þig ad taka, til Lausnar allra Utvaldra Maṅa. Þu sem

hallded hefur Strijd hins bitra Dauda, og ollum Utvolldum Moṅum upplok-

ed Rijke Himnaṅa. Þar fyrer situr þu nu a hægra Veg, i Dijrdeṅe Fodur-


sins. Og hier epter muntu verda komande, eirn strangur og Riettlatur
Domare. O Drotten, vier bidium þig, ad þu villder þijnum trulyndum Pionum
verda hialpande. Hvoria þu hefur leyst med þijnu dijrmæta Bloode. Gief
þijnum Pioonum ad verda hluttakande þinar Dijrdar. O Drotten hialpa þijnu
Utvolldu Folke, og blessa þa sem þier eru til Erfdar giefner. Og þu sialfur
þeim stioorna, og kien þeim þin æfenlegan Vilia ad giora. Vier lesum og

dyrdkum sanan Gud, alla Daga og Tijma. Og vier lofum pitt Nafn æfen-

lega, og um̃ Allder Allda. O DRotteñ vardveittu pijna Utvalda alla

Tijma, so ad peir meige alldrei aa moote pijnum Vilia giøra. O DRotteñ

Gud Myskuna oss, og vert oss Lijknsamur. O DRotteñ tiaa pu oss pijna

Myskunseme, epter pvi ad vier setium vora Von i pier. J pier DRotteñ er

oll vor Von, par fyrer laat pu oss ecke neitt til Skam̃ar verda, A- men.

Medañ Foolk er til Sacramentis, Pier sie Løf og Dijrd, etc.

## Epter Blessan þenañ Psalm.



Pier Packer giorum, Skapara vorum, þijnum Syne kiæra, skapader



þa Skara, Elldlega Sveina, Andana hreina, Einglana þijna.

Af Lioose þijnu, Liooma þeir einu, J Dijrd-ar-Sæte, Siaa þeir þitt Auglite, og Ord þijn heyra, Vitsku þvi dijra, vita og skijra.

Ei villt þeir være, Ydiulaus Skare, nie Raadlauslega, um Lopted sliwga, Nie medal Vinda, utañ Parfinda, a Skiemtan stunda.

Helldur hiaa Christe, Villt þeir sig viste, Ondu og Lijfe, Utvalldra ad hlijfe, Sem Ord þijn muna, af Hiarta uña, Efla sem kuña.

Þvi þijnu Lide, Med Heipt og Strijde, Forn Dreke stundar, Faar Lijfs og Andar, sa Heim Heill sneidde, Synd fyrst Jñleidde, Sw Mañkynd deydde.

Hvor Lande, Bygdum, Løgmaale, Trygdum, Stioorn, Frelse, Fridnum, Stiett, Heilsu, Sidnum, Øllu vill illa, Og Kyrkiu mest spilla, Og Kieñing villa.

Oss fordar þeirre, Astrijdu stoorre, Christur vor kiære, og hañs Eingla Skare, Sem miog mootstanda, Oss aasækianda, Ohreina Anda.

Loth af Sodoma, Einglar wtkoma, Af Hernadar-Voda, Elisæo gooda, Kom eing-

eñ

eñ Kvijde, Friaals var med Fride, J Eingla Lide.

Dijr Guds Spaamadur, Daniel sat glad ur, Midt mille Leona, Meigum vier so vona, Pessa Pienara, Ætijd forvara, Oss og Eign vora.

Pessa Giof þijna, heidrum nu hreina Christner Meñ kæter, Og Einglaña Sveiter, Med Hug og Vorum, Packer vier giorum, Skapara vorum.

Af ollum Huga, Oskum miwklega, Christeñdoom soñum, Sonar þijns Moñum, Sem Ord hans stunda, Æ vilier senda, þa Vardhallds-Anda, Amen.

## Pañ 16. 17. 18. Suñudag epter Trinitatis, Messu Upphaf, allt til 19. Suñudags.



Til þijn heilage Herra Gud, hef eg lypt Saalu miñe, Laattu mig alldrei Af Hug og Hiarta i hvorre Neyd, Hiastod treystande þiñe.



lijda Smaan, Olucku, Bryxl nie Saalartioon, so Fiandmeñ ei fagna kuñe.

Oskamader verda aller þeir, epter þier hvorsia kaungar, eñ svijvirdast munu meir og meir, so marger sem Afvega gaanga, Hafnande þiñe Hiaalp og Raad, eñ hyllast Diofulsins skiem-

dar Raad, Og elska ei utañ hid Ranga.

Volldugur HErra vijsa mier, A Veg og Gøtu þijna, Vid Sañleik þiñ mier halltu hier; Og hyngrada Saalu mijna, med Vijsdooms Anda uppfylltu, og Orde þijnu blessudu, Pvi a þig trwe eg alleina.

Minstu a þijna myklu Naad, Og Myskun Pusundfallda, og þad Himneska Hiaalpar-Raad, sem hugder fyrer Allder Allda, fyrer Giæsku þijna minstu mijn, og mier þitt Fodurlegt Hiarta sijn, Hreiñe Trw laat mig hallda.

Miñ Ungdooms-Brest og Afbrot leid, aa-kijt ei HErrañ kiære, Peinktu helldur aa þiñ Eid, og Obrygdañlegt Sære, O Herra Gud af Hiarta eg bid, Harmþrwngnum þu mier veiter Lid, So sem eg Saklaus være.

Goodur og Riettvijs Gud vor er, sem giarnañ medtekur alla, Pa sem ad Lijfs Braut leita sier, og lætur þa til sijn kalla, Hughreyster Skielfda og hiaalpar vid, So hafe þeir Gledeog Andar-Frid, Og ei meige fraa honum falla.

Ord Guds og Veiger aller hañs, Eru Myskun og Sañleike, Naadar-Bruñur og Næring Mañs, Naakvæmust, hvad sem veiker, Pa sem Hug og Hiarta mest, Hafa aa hañs Orde fest, af Trwñe so alldrei skeike.

Naaduge Gud fyrer Nafned þitt, og Nægd Myskunar þiñar, Gief ad mijn Synd sie klaar og kvitt, Kieñe eg Daglega heñar, Hun særer bæde Saal og Lijf, Nema sender þu mier Styrk og Hlijf, Samvitskañ so Frid meige fiña.

Hvør sem Ottast og Elskar Gud, skal eilijfa Myskun hlioota, Gud kieñer honum sijn Heilög Bod, Og lætur ei Blessan þrioota, Afkvæme hañs mun Audlegd faa, Og bloomgast allvel Jördu aa, Gudhrædder Naadar niota.

Upp til DRottens Augunum, aavallt giore eg ad reña, Pvi alleinasta hiaa honum, Huggun trw eg mig fiña, Synda Fiotur af Footum mier, Færa mun hañ til Dijrdar sier, So meige eg hañs Krapt medkieña.

Siaa til mijn og hiaalpa mier, Til Hiarta

laat

laat þier gaanga, Ad eg so þiaadur i Eymdum er, Og Offsookn bijd eg laanga, Ætijd margfalldast Anaud sw, Fraa Oke þvi mig frelsa þu, Og fyrergief Glæpe raanga.

Geym mijna Saal og svipt mier fraa, Saurgan Ohreirnra Anda, Heilagt Meinlevse laat mig faa, Til Lykta stodugañ standa, Þvi mijn orugg Von er øll i þier, Israel virdstu ad frelsa hier, wr Haaska og hvorium Vanda.

Dijrd Gude Fødur og Syne sie, Sunge eñ um̃ Allder Allda, Eins sem hun var ad Upphafe, Ædsta Lof skulum giallda, Heilogum Anda med Huga og Raust, Mioote hañ Lofgiørd Endalaust, Fyrer Blessan margfallda.

Allur añar Saungur, Fyrerfarande Suñudag.    Epter Blessan.



Ovinañleg Borg er vor Gud, aagiæta Skiolldur og Veria, Sa ille Hañ frelsar oss af allre Naud, sem æ oss kañ ad heria.



Ovin forn, er nu aakafa giarn, mørg Svik og Vollden vest, Vijg-Viel hañs



eru mest, Of-stoor vid Heims Makt hvoria.

Vor eigeñ Nattur ekkert kañ, Oll vor Von strax er fareñ, Fyrer oss strijder Ædste Mañ, af sialfum Gude kioreñ, Ef spyr þu hañs Heite ad, HErrañ JEsus er þad, DRotteñ Allsheriar eirn, Eier Gud añar neirn, Sä er jafnañ Sigrareñ.

Være af Dioflum Verolld full, og villde oss svelgia alla, Vel tækest þo vor Efne oll, Ekkert skal oss þvi hrella. Þessa Heims Hofdinge, Hrædelegur þo sie, a oss ei orka kañ, adur er dæmdur hañ, Eitt Guds Ord kañ hañ fella.

Þeir skulu ongvar Þacker faa, þad Ord laata þo standa, sañur Gud er oss sialfur hiaa, med sijnum Gaafum og Anda, take þeir Lijf af oss, Sæmd, Kvinu, Bern og Goß, allt þad umlijdum vier, Abate ei neirn þeim er, Arfe Guds holldum a Enda.

Myskunar Fadereñ millde Gud, mest sie þier Dyrd um Heimeñ, ad sijnder oss aumum sæta Naad, Son þiñ er til vor komeñ, og Heilogum Anda med, sem oss fær Lijfn og Frid, Veg til Guds vita liet, Vist oss a Himnum hiet, Heill sw halldest oss, Amen.

## Þañ 19. 20. 21. Suñudag epter Trinitatis, Messu Upphaf.



Sæler eru þeim sialfur Gud, Synder af Naad til giefur, Sæll er
Og hvorra Brot og Breyskleik med, Blood JEsu huled hefur.



sa Mañ, þeim Gud þess añ, uñ Løst aungvañ ætelur, af Hug ydrast, og



## Synd flijr fast, sialfs Guds Myskun sig felur.

So leinge sem mig Samvitskan, Synder liet ecke jaata, Mañdaad og Hugboð mijnka kañ, maatte eg þvi jafnañ græta: Um̃ Dag og Natt, eg kañ þyñ Mætt, Of-þwngañ Mañkynd aumre, Megned mitt þa, mier drooſt ſo fra, ſem allt þornar a Sumre.

Þvi jaata eg þier øll mijn Brot, æn Feaurdar og Varnar, hyl ei, ad syndgast hef þier moot, Hollds Villd fylgiande giarnañ. Saade eg med mier: Miñ Gud vil þier, mijna Glæpe medkieña: Aflausn og Saatt, af þier fieck brætt, allra Misgiorda miña.

Um̃ þa Kvittun a riettre Tijd, aller Helger þig bidia, hvonær sem kiemur Hormung strijd, hier fyrer villt þær stidla. Þu ert mitt Skiool i allre Kvol. Vid Hæska villt mier hlijfa. Vardveit þu mig, ſo vite eg þig, um̃ Lausn gladur ad lofa.

Þu hietst Vitsku ad veita mier, vel-færa Leid ad boda, Forſioon vera og Fylgd mijn hier, forda vid øllum Voda. Vered ei meir, ſem Vitlaus Dijr, baag hliota Beytsl ad lijda, utañ Ognar, og Naudungar, ei villied Gude hlijda.

Ill-fwſer rata Eymd og Tioon, Ofiorþwng og Hefnd marga, hvorier a DRottne hafa Von, hañs Myskun vill þeim biarga. Um̃ þad gledieſt, i Gude meſt, af Naad og Trw Riettlæter, hvorier af Hug, hañs ræked Bod, Hrooſed Guds Adſtod kæter.

Dijrd Gude Fodur og Syne ſie, ſungeñ og heiløgum Anda, eins ſem hun var ad Upphafe, oſs veite Naad ad ſtanda, vel a hañs Veg, eñ varaſt mieg, Synd, Dioful, Holld og Heimeñ. Gud giefe þad, hañs hølldum Naad, ſijngium þvi aller, Amen.

Ein-

## Epter Blessan skal siingia þeñañ Psalm, med Ton, Heimile
vort og Hwseñ med, ut supra, etc.

SAell er sa Mañ sem hafna kañ, hreckvijsra Maña Raade, og syndugra Veige alldrei añ, ei sat hiaa skiemdar Haade, helldur med vilia, Hug og Maatt, hreinferduglega Dag og Naatt, ad Guds Logmaale gaade.

Sa Madur eins og Eyk fro er, uppvex h'aa Vatna Straume, aa siinum Tijma Aallden ber, ei fellur Lauf nie Bloome. Allt Gott sem hañ vill hafast ad, honum mun ætijd veitast þad, farsællega framkome.

Þeir Glæpa Veige gaunga aa, Guds Raadum ecke hlijda, Audnu þvilijkre alldrei naa, Afelle helldur kijda. Eins sem þa Fis aa flatre Jord, feykia Storm-Vidre hvoss og hord, um ymsar Alfur vijda.

Illgiarner kuña ecke þvi, Uppreisn i Doome hlioota, sañra Guds Vina Sofnude i, Synduger Kiors ei nioota. Eñ goodra Maña greider Veg, Guds Naad og Myskun æfeñleg, Raanglaatra Leid mun brioota.

Fodur Syne og Anda sie, ædst Dijrd um Jord og Himen, eins sem hun var ad Upphafe, aan Enda verde frameñ. Kieñ oss ad hallda Christeñ Sid, Kvittast og skiliast Synder vid, sa þad vill, siinge Amen.

## A Allra Heilagra Messu, skal vera Messu Upphaf, og allur añar Saungur,
sem næst fyrerfarande Suñudag, nema Haatijda CREDO. J Stadeñ fyrer Versed, Heidrum Gud Fodur Himnum a, etc. Skal siingia þeñañ Psalm, epter Predikun, epter Ritualnum.



Kiært Lof Guds Christne alltijd, kvede, og vere glod, Þvi hañs Ord nu munu
Sem diktar Skallded David, Dyrd Gude i hædstum Stad. hlioods



bliooda, so hatt um̃ Veralldar Lond, sem Christi Dijrd kañ oss biooda, og kiær er



vor Hiaalpar Hond.

Gud Fader af Giæsku siñe, Gaf oss eirn Christeñ Mañ, Sijn Ord ad setia i Miñe, so og bevijsar hañ, Ad vier sem kollunst Christ-ner, kynstra miog foorum villt, vorum til Goods miog visner, Vor Kieñing var illa spillt.

Riett Braut til Rijkes Himna, Er Raunar Guds Ord Ospillt, Hañ sialfur so vill kyña, Sw Leid hun fer ei villt, vier hofum þad illa vaktad, vort Traust ei sett þar til, þvi hefur Gud oss ei aktad, A Myrkrum hielldum vier Skil.

Allt þad vier ættum ad giora, Er ongvum nijteleat, Pvi Fiandeñ villde oss særa, Fast moot Guds Ordum rijkt, Med Fals-Jard-teiknum og Draumum, droo hañ sitt Net fyrer oss, Guds Orde vill hañ vier gleymum, og giefunst i Synda Foss.

Nu lætur hañ noog uppskrifa, Ny Bod Guds Orde a moot, Og med Eytre wtdrijfa, alla Guds Orda Root, Ad Meñ treyste æ añad, Eñ JEsu Pijnu og Deyd, Verlega Gud þad bañar, og bodar þeim Vijtis-Neyd,

Pa mattu so merkia og skilia, sem mestar Villur fær, Peir hafa hyor siñ Vilia, Og hallda fast þar æ, Falskar Fundingar Maña, Peir festa i siñ Lærdoom, Blessad Guds Ord þeir baña, þad beyskest i þeirra Goom.

Peir hallda fram̃ Vana Maña, og marg-

